Hvør er sú stærsta lucka i heimi þessum? Svar: Hún er sú, ad vera sannarligt Guds Barn. Þetta er hin stærsta, já hin einasta lucka! Margir kalla það lucku ad vera ríkur, mektugur, vinsæll, heilsugóður og þesshátter; en það er þó aldeilis ecki svo, i sjálfu sér; því sumum, sem þó eru Guds óvinir, heppnast og svo þetta, og ýmsum verdur það til falls, svo þeir missa Guds vináttu. Ney! Guds náð og vinátta, er sú einasta sanna lucka, og eckert annad; hún gjörir mann ríkann af andligum audæfum, svo sem af trúnni, voninni eg kjærleikanum; mektugann til ad mótistrída og yfirvinna óvini sálar sinnar, hold, heim og djoful; vinsælann hjá heilögum einglum á himnum, og sonnum Guds børnum hér á jordunni; og loksins heilsugóðann á sálunni, svo hann verdur fær til ad þjóna Gudi og náúnga sinum, og til ad verka sina eigin sáluhjálp, med ugga og ótta.

En hvørt er þá merki þess, ad madur sé svo luckuligur ordinn, ad hann i raun og veru sé eitt sannarligt Guds barn? Það seigir postulinn Paulus oss med þessum ordum: þeir sem Guds andi leidir, þeir eru (sannarlig) Guds børn (Rom. 8, 14). En í hvørju er þá þessi Guds anda leidsla falin? Hún er falin.

1) Í því: ad heil. andi setur mann í skóla ydrunarinnar, hvar hann lærir ad þeckja syndir

sínar og Guðs reiði í gégn þeim; hvar af maður þá uppvekst: fyrst til alvarligs ángurs og trega fyrir þær; svo hann ecki hefur ró í samvitsku sinni, fyrr enn hann veit sig feingið hafa uppgjöf á þeim hjá guði.

Því næst til einlægs ásetnings að forðast og flýa syndirnar af fremsta megni framveigis, svo hann aldrei vísvitandi samþycki eður drýgi nockra þeirra. 2) Leiðir heilagur andi manninn inn í musteri trúarinnar, hvar hann sjer Jesúm Christum, þann æðsta biskup sálna vorra, framberanda fyrir Guð, þá allraheilögustu fórn síns blessaða blóðs og dauða, með hvörri hann friðþægt hefur fyrir heimsins syndir; hvar af í mannsins sálu þá upptendrast: a) Lifandi von um fyrirgéfníngu syndanna, og náð hjá guði, vegna Jesú forþénustu. b) Hjartanlig gleði og tilhlackan að meiga lifa í Guðs ást og vinfeingi, tímanliga og eilífliga. c) Innilígasta elska og kærleiki til Guðs fyrir Jesúm Christ, og til sjálfs Jesú, sem líf sitt gaf í dauðann, til þess að vér sáluhólpnir yrðum. d) Hreinskilnasta laungun og áform, að gjöra, allt hvað manni möguligt er, sínum Guði og Frelsara til lofs og dýrðar, hér í heimi. Hvar af flýtur: e) að þar Guð elskar alla jafnt, sem þeirra skapari, og vill að allir sáluhólpnir verði, þá elskar eitt Guðs barn ogsvo alla sína sambræður í heiminum, og leitast allt hvað það gétur við, að verka til þeirra tímanligu, og einkum andligu, velferðar.

Þannig leiðir nú Guðs andi alla þá, sem sönn Guðs börn eru, hvörri leiðslu hans þeir og svo trúliga fylgja, svo leingi þeir lifa; því ef þeir vísvitandi fylgja henni ecki, missa þeir undir eins Guðs náð og vináttu, og gjöra sjálfa sig eilífs lífs ómakliga. En

þessi heilags anda innvortis leidsla auglýsir sig og svo útvortis í øllu lifnadarlagi Guds barna, fyrir annara augum. Hún auglýsir sig því:

1) í sjálfsafneitaninni, svo þeir þeckjanliga sýnja sjálfum sér, ecki ad eins alls syndugs eptirlætis í heiminum, heldur og jafnvel þess, er þá kynni til syndar ad draga, á einn edur annann hátt, þótt í sjálfu sér syndlaust vyrdast meigi; 2) í hógværdinni, í því ad umbera breiskleika síns náúnga, og fyrirgéfa af hjarta øllum sínum óvildar-mønnum; 3) í kærleikans ydkunum, med því ad audsýna náúnga sínum alla þá hjálp og adstod, sem manni møguligt er, einkum þeim naudlídandi; 4) í þolinmædinni í hvørjum sem heldst þjáningum, sem drottni þóknast þeim til handa ad senda,.til ad reyna med trú þeirra og stodugl yndi; 5) í andagtaræfingum, svo sem til dæmis: a) med rækiligri heyrn og yfirvegun Guds orda, bædi í kyrkjunni og í heimahúsum; b) med ydugligri bænrækni til lifanda Guds í Jesú nafni, bædi fyrir sér sjálfum, vinum og óvinum, heimugliga og opinberliga; c) med inniligri vidleitni, ad gjøra sem flesta, sem møguligt er, ad Guds børnum ásamt sér; med því ad vanda um vid þá órádvøndu, advara þá athugalausu, og leida á réttann veg þá villir fara; en einkanliga med því ad géfa øllum sem best eptirdæmi, bædi med ordum og verkum. Og loksins d) med lotníngarfyllstu tidkun Jesú heil. kvøldmáltidar sakramentis, ad undangeinginni alvarligri sjálfsprófun og tilreidslu, til þess ad heidra sem best Jesú blessada minníngu opinberliga fyrir heiminum, svo sem hans sannur og trúfastur rikis undirsáti.

Hvor sem nú þannig af Guds anda, alla sína æfi, allt fram í daudann, leidast lætur, er hin sannlucku-ligasta manneskja í heimi þessum, og er rétt sem innsigladur erfingi himnaríkis, hvenær sem hann hér vid skilur.

Gud eilífur géfi oss øllum þá lucku ad hreppa, í Jesú nafni! Amen!

Léna mér Jesú lucku sanna,
ad lifa í þinni ást og trú!
skeyti eg þá lítid allt um annad,
ad eins mér hlotnist gjæfa sú;
ef eg vinfeingi ødlast þitt,
eigi verøldin glingur sitt!

Øll er vegsemdin heims á hjóli
en hylli Guds aldrei raskast má,
lýsa því fyrir lambsins stóli,
þeir lifa nú frelstir himnum á;
mótlætid neins ei meta því
er máttu hér reyna verøld í.

Guds barn ad vera er gjæfan mesta
gétur hún hlotnast þeim ed vill,
svo framt vid himin hjartad festa,
en hata og fordast verkin ill;
andi Guds leidir alla þá,
sem eptir hans leidslu vilja gá.